


IV. Winnipeg, Man. Nr. 8.

# KALDEUMENN HINIR FORNU.

Niðurlag.

Vér höfum nú þegar sýnt, hvernig Gyðingar hafa fengið sögu sína frá heiðnum þjóðum, og hve fjarri það sé, að biblían, eða þessar sögur í henni, sem nú hefir verið frá sagt, séu guðdómlegar, því að þær eru hvorki meira né minna en skýring á náttúruviðburðum. En nú skulum vér leitast við að sýna það af sjálfri sögu Gyðinga, að þeir voru af heiðingjum komnir og heiðnir í fyrstu og langt fram eftir tímum.

Það er þá fyrst, að forfaðir Gyðinga, Abraham, fluttist með föður sínum Tara frá borginni Úr í Kaldeu til Kanaanslands. Hvort þeir hafi verið reknir þaðan af landsbúum, eða farið af eigin frjálsum vilja, er óvíst, og eru um það ýmsar skoðanir. En að því getum vér gengið vísu, að þeir hafi þekt guðsdýrkun Kaldea og goðsagnir, og er eigi ólíklegt, að trú þeirra hafi blandin verið. Enda ber margt þess vott. Vér skulum taka fátt eitt til frá eldri tímum.

Fyrst er mannblót, þegar Abraham ætlaði að blóta syni sínum Ísak. Sagan lætur það ekki vera Abraham að þakka, að hann hætti við að blóta Ísak, heldur er engill drottins látinn snúa honum frá óhæfu þessari. Margir taka sögu þessa svo, sem sé hún fyrirmynd þess, er menn fóru að sjá það, hvílík óhæfa það var, að ætla sér að blíðka guð með mannblótum, en enginn getur neitað því, að þetta ber vott um það, að þá hafi mannblót ekki þótt nein óhæfa eða nýlunda, en það er aftur vottur þess, að þeir menn, sem þannig trúðu, hafa ekki getað fengið trú sína opinberaða af guði. Þessi mannblót

gengust og oft við í heiðnum löndum og þessi mannblót tíðkuðust hjá Gyðingum lengi fram eftir jafnvel fram á daga Davíðs eins og áður hefir verið skýrt frá í Dagsbrún.

Þá er eiðurinn Abrahams eitthvað undarlegur og í meira lagi heiðinglegur. Í 24. kap. 1. Mós. 9. v., er þjónn Abrahams látinn sverja honum hinn dýrasta eið með því, að leggja hönd sína undir lend Abrahams. Alveg sama eið lét Jakob Jósep son sinn vinna sér, er hann var að skuldbinda hann til þess, að flytja lík sitt í land feðra sinna, (sjá 1. Mós. 47. kap. 29. v.) Þessi eiður bendir svo ljóslega á náttúrudýrkun, sem víða átti sér stað hjá austurlandaþjóðunum, að ómögulegt er að bera á móti því, fyrir mann sem hefir snefil af sanngirni. Þá segir og Jósúa það skýlaust í Jósúabók 24. kap.: "Þá sagði Jósúa til alls lýðsins: svo segir drottinn Ísraels guð, þeir langfeðgar yðar, Tara, sem var faðir þeirra Abrahams og Nakórs, bjuggu forðum fyrir austan fljót (Efrat) og *þjónuðu annarlegum guðum,*" og seinna: "rekið burtu þá guði sem *feður yðar þjónuðu* fyrir austan fljótið og í Egyftalandi, en þjónið drottni" og svo rétt þar á eftir: "kjósið þá í dag hverjum þér viljið þjóna, hvort heldur guðum þeim, sem feður yðar þjónuðu fyrir austan fljótið (Efrat) og í Egyftalandi, eða þjóna drottni." Þá sést það og, að sú kvíslin, sem kyr var í landinu við Efrat, ættmenn Nakors, héldu áfram heiðni sinni, þar sem sagt er frá því í 16. Mós. 31, 19, að "Rakel stal skurðgoðum föður síns." Og þegar Laban kemur að elta þau og spyr Jakob: "Hví stalstu goðum mínum?" þá vildi Rakel ekki láta goðin af hendi og kom þeim undir úlfaldasöðul og settist á, og fann Laban þau ekki. Enn sóru þeir eið báðir Laban og Jakob og eiðurinn var svarinn við guð Abrahams og Nakors, en nú var Nakor skurðgoðadýrkari og hafa þeir því svarið heiðinn eið. Sagan segir að Jakob hafi svarið við ótta föður síns Ísaks, hvað svo sem það á að vera. Hvað gat nú komið Rakel til að stela skurðgoðunum annað en það, að hún hélt að þessir guðir væru svo máttugir, að hún mætti ekki vera án þeirra, mætti ekki vera án blessunar þeirra? Þó að vér nú tökum Jakob sem góðan og gildan eingyðismann, þá verður það þó eftir, að Rakel var heiðin, og forfeður þeirra, Tara faðir Abrahams og Nakor, voru heiðnir og Abraham og Jakob blandnir mjög. — Þá kemur og hið sama í ljós miklu seinna í bók Jónasar spámanns, þegar guð fer að senda hann til Niniveborgar. En nú vita allir, sem einhverja vitund þekkja til sögu austurlanda, að Ninivemenn voru heiðnir. Þeir voru Kaldeumenn og trúðu á ótal guði, en helstir þeirra voru þeir Anu, Ea og Bel. Þegar Jónas færir þeim boðskap guðs, er sagt að þeir hafi "hlýtt honnm, og konungurinn

stóð upp úr hásæti sínu, lagði af sér skykkju sína, klæddi sig í hárklæði og settist í ösku. Hann lét og boðskap út ganga: "Bæði menn og skepnur skulu íklæðast sorgarbúningi og kalla ákaflega til guðs, hver maður skal láta af sinni vondri breytni og af þeim rangindum, sem hann hefir um hönd haft. Hver veit nema guð kunni að sjá sig um hönd, kenna í brjósti um oss og láta af sinni brennandi reiði svo vér ekki fyrirförumst."

Finnst yður það nú líklegt að hinn voldugi og drambláti Ninive konungur, hinn rammasti heiðingi, hefði farið að láta að orðum guðs þess, sem hann hafði aldri fyrri heyrt um getið, guðs Gyðinga, hinnar litlu og fyrirlitnu þjóðar? Finnst yður það líklegt að hann hefði orðið hræddur við boðskap Jónasar og farið að klæðast í sekk og ösku, þó að einhver rutlaður karl hefði komið með hótanir frá ókunnum guði. Eða eru nokkur dæmi til þess í sögunni að höfuðborg i stóru og voldugu ríki, hafi alt í einu farið að lúta ókunnum guði og hlýða boðum hans? Nei, því að eins hlýddu Ninivemenn og konungur þeirra boðskap Jónasara eða réttara, því að eins lætur sögu höfundurinn þá hlýða, að þeir þektu þennan guð. Þeir tignuðu sjálfir Ea, sem Gyðingar nefndu Jahve eða Jehóva. Það er sama nafnið, sami guðinn. Hugmyndin um hann er orðin nokkuð breytt hjá Gyðingum; hann er hjá þeim orðinn æðstur allra guða, eins og hugmyndir allar breytast, þegar þær flytjast frá einni þjóð til annarar; frá einu landi til annars, frá einni öld til annarar. Forfeður þessara þjóða, Gyðinga og Ninivebúa, höfðu búið saman endur fyrir löngu, þeir höfðu tilbeðið og dýrkað hinn sama guð, guðinn Ea, hinn vinveitta mönnunum. Þá var guð sá guð heiðingja, hann var einn af ótal guðum er þeir dýrkuðu, þess vegna könnuðust þeir við hann þegar Jónas fór að segja þeim frá honum þess vegna hlýddu þeir honum og klæddust sekk og ösku.

Þetta er eitt af því, sem sýnir það svo ljóslega að Gyðingar voru heiðnir, forfeður þeirra, en það sýnir líka hitt, sem mannkynssagan hefir ávalt sýnt, að þjóðirnar eru einlægt að bæta guði sína. Guð Íslendinga er betri nú á dögum, en hann var á dögum Vídalíns gamla. Guð kristinna manna er betri nú á dögum, heldur en þegar menn útbreiddu trúna á hann með báli, brandi og manndrápum. Á dögum Jónasar voru Gydingar farnir að fullkomna guðshugmynd sína. Þeir voru að miklu látnir af mannblótum, þeir voru farnir að fá óbeit á því, að drepa saklausa menn guði til velþóknunar. En þá var guðinn Jahve hjá þeim í raun og veru sami guðinn og heiðingja guðinn Ea, sem Ninivemenn dýrkuðu.

Hvernig í ósköpunum geta nú klerkar og kennimenn hinnar

rétttrúuðu kirkju farið að halda fram guðdómlegri opinberun biblíunnar, þegar alt þetta sem að framan er tilfært, má sýna og sanna hverjum heilvita manni. Þegar vér getum sýnt og sannað, að sögurnar sem eru grundvallarhugmyndir gamla testamentisins, sem gamla testamentið og trú Gyðinga stendur á, eru svona tilkomnar, eru heiðnar, fengnar frá heiðnum þjóðum; leifar af átrúnaði heiðinna þjóða. Þegar vér getum rakið sköpunarsögu Mósesar, syndafallið, lífsins tré, syndaflóðið, turninn Babel, Davíðs sálma og ótal fleira stórvægilegt upp til hinna gömlu Kaldeumanna. Þegar sjálf bókin Jónasar spámanns sýnir, að hvorutveggju Gyðingar og Niniveborgarmenn hafa á sama guðinn trúað. Vér vitum það, eða það veit hver maður, sem nokkuð þekkir til kristinnar trúar að hún er í rauninni öll bygð á syndafallinu því að, ef að mennirnir hefðu aldrei fallið, þá hefði guð aldrei þurft að deyða sinn eigin son, eða sjálfan sig til þess, að endurleysa mannkynið frá helvítis kvölum. Þegar þetta er nú alt saman svona eins og það er, hvernig dyrfast menn þá, hvernig geta þeir verið svo ósvífnir, að berja það blákalt inn í aumingja fáfróða lýðinn, að þeir skuli trúa hverju orði, sem í ritningunni stendur af því, að þau séu öll guðdómlega sönn?

Til sönnunar því, að mönnum eru farnar að þykja þær merkilegar þessar fornleifar Kaldeumanna, þá viljum vér geta þess, að nýlega sendu Bandaríkjamenn hóp af fornfræðingum austur í Efratsdalinn til þess að grafa þar í rústum hinna gömlu borga og er nú farið að fregnast af ferðum nefndar þeirra. Þeir grófu þar og fundu fornar töflur, sem sýndu það, að menn voru farnir að rita þessu letri, ekki 4,000 heldur jafnvel 7,000 árum fyrir Krist. Er það hið lengsta, sem menn þannig hafa komist upp í hina myrku fortíð, en það eitt er nóg til þess, að raska gildi ritningarinnar, sem guðdómlegrar opinberunar.

Bækur þær, sem notaðar hafa verið við samning greinar þessarar, eru einkum "Revised Encyclopædia Britannica" í 20 bindum; "Chaldea," eftir Ragozin; "The Chaldean Account of Gensis", eftir Smith. Greinir úr "Unitarian Rewiew" eftir 1886 og fleiri bækur.

Prentvillur hafa því miður of margar slæðst inn í ritgjörðina. En það helst í seinasta blaði nr. 6 þ. á., svo sem á bls. 84, 17. línu að ofan: Kaldeuprins fyrir Kaldeu*prestur* og seinna á sömu bls. 14. línu að neðan: sólguðsins, Sippar, í stað sólguðsins *í* Sippar, því að sólguð Kaldeumanna hét Shamash; á bls. 83 stendur í 9. línu að neðan: Ereach fyrir Erech, og er sama villan á bls. 86. Á bls. 90 stendur: Ninit fyrir Ninib. Þetta og því um líkt biðjum vér lesendur að sjá í gegnum fingur við og lesa í málið.

# Garrison í himnaríki.

Eftir

## William Denton.

M. P. þýddi.

WILLIAM LLOYD GARRISON er fæddur í Newburyport, Mass., 10. Des. 1805; dó 1879. Var hann einn af mestu gáfumönnum og frelsishetjum Bandaríkja. Faðir hans var fátækur og var drengurinn fyrst skóarasveinn, svo snikkari, svo yfirprentari og loks blaðamaður. Stofnaði hann eitt blaðið á fætur öðru og gekk misjafnt, var hann oft sektaður fyrir frjálslyndar greinar. Loks stofnaði hann blaðið "Liberator" 1831 og var einkunn þess: heimurinn er mitt föðurland, en mannkynið alt landar mínir.

Hann barðist fyrir frelsi i allri mynd. Því að hann hataði alla kúgun og ofríki og konunglegt einveldi. En sérstaklega er hann nafnkunnur orðinn fyrir baráttu sína móti þrælahaldi.

Hann var sendur til Englands til að berjast þar fyrir afnámi þrælahalds og varð honum mikið ágengt. Þegar heim kom aftur hélt hann fyrirlestra móti þrælahaldi hvern á fætur öðrum. Mætti hann þá svo miklum ofsóknum að sjaldan var líf hans óhult. Stundum var hann dreginn á reipi eftir strætum borga þeirra, er hann flutti fyrirlestra í til afnáms þrælahalds og alla vega var honum misþyrmt, en hann lét sig aldrei, hversu sem honum var ógnað og hverju sem honnm var hótað; hann gat ekki þolað kúgun, hann vildi, að rétturinn næði jafnt yfir alla, Hann elskaði svo meðbræður sína, að hann vildi lífið láta ef að hann gæti létt eymdinni af herðum einhverra. Garrison er því einhver hin mesta frelsishetja Bandaríkjanna og hann átti mjög mikinn þátt í að þrælahald var afnumið í Bandaríkjunum. Sá er ritar sögu þessa er hér er útlögð, William Denton, er frægur rithöfundur og mælskumaður og dregur hann háðslega mynd af hugmyndum réttrúuðu kirkjnnnar um himnaríki og helvíti, holdtekju o. s. frv. Menn verða að hafa fast í huga er menn lesa draum þennan, að það er ekki sá hinn sanni guð sem Denton er að hæðast að, heldur hinn grimdarfulli guð Gyðinga og rétttrúuðu kyrkjunnar, eða þær hinar röngu og grimdarfullu og svívirðilegu hugmyndir sem klerkar og kyrkja hafa búið sér til af guði. Því að hinn sanni guð hlýtur að vera svo ólíkur hugmyndum klerka og kyrkju, sem svart er hvítu, nótt er degi, eða lygar sannleikanum.

---

Án efa eru það mjög fáir af borgurum Bandaríkjanna, að minsta kosti, sem ekki hafa hafa heyrt getið um frelsishetjuna WILLIAM LLOYD GARRISON. Þrælaeigandinn heyrði hans getið og hann skalf af bræði um leið og hann bað honum grimmustu bölbæna ; en veslings þjakaði blökkumaðurinn árnaði honum allrar blessunar. Hver einasti orþódox prestur í landinu þekti hann, og svo að segja hver einasti þeirra barnsöng hann ; þeir hötuðu hann fyrir það, að hann

"raskaði ró kyrkjunnar." Og pólitiskir vindbelgir atyrtu hann á allar lundir fyrir æsingar gegn "lands lögum og rétti." Hvað eina, sem kom í bága við almenn mannréttindi *allra* einstaklinga, það reyndi Garrison að brjóta á bak aftur, og hvað eina sem að hans áliti miðaði til að bæta kjör bágstaddra og auka mannúðina í heiminum, það studdi Garrison af alefli. Hinn grimmi guð kristinna manna, biblían og þáverandi stjórnarfyrirkomulag Bandaríkjanna, sem í sameiningu héldu uppi þrælahaldinu, — þetta voru goð, sem hann taldi skyldu hvers ærlegs manns að hrinda af stalli, enda þótt allur hinn kristni heimur kripi á kné fyrir goðum þessum. Hann er *nú* af hinni kristnu kyrkju sagður að hafa verið sannkristinn; þeir reyna að ljúga hann dauðann inn í flokk sinn, svo að minning hans skuli slá dálitlum bjarma á kreddusvartnætti þeirra. Og þó trúði hann vitaskuld ekki fremur á biblíuna eða heilagan innblástur heldur en Thomas Paine. En í raun og veru er það efamál, hvort nokkru sinni hefir lifað maður í raun og veru eins fullkomlega sannkristinn og hann. Í samanburði við hann hefir umbótamaður Gyðinga, hinn mikli mannvinur Jesús, verið þröngsýnn og sérgóður.

Jesús var gyðingur, og eftir hans áliti var gyðingaþjóðin sérstaklega guðs útvalin börn. "Gangið ekki á vegum villimanna," var skipun hans, er hann sendi út lærisveina sína til að prédika. Auk heldur Samarítar voru of óguðlega sinnaðir til að geta orðið aðnjótandi "fagnaðarboðskapar" hans, því hann sagði: "Og bústöðum Samaríta skuluð þið sneiða hjá." En mannúð og réttlætistilfinning Garrisons átti sér engin takmörk. Litarháttur eða kredduskoðun var hjá honum einskis virði, er hann sá mann hneptan í viðjum við fætur sér.

Jesús var æfinlega mjög umhugað um að fólk tryði á sig. Samandregið í fá orð er þetta aðalinntakið úr kenning hans: "Himnaríkissæla er hlutskifti þeirra sem á mig trúa, en hinum, sem ekki trúa á mig, skal búinn eilífur eldur." Garrison hugsaði að eins um að hjálpa hinum undirokuðu. "Hugsið um mig hvað sem ykkur sýnist, en gefið þrælunum frelsi," þetta var aðalinntakið úr kenning hans og lífsskoðun. Jesús vissi vel að þrælahald átti sér stað í Judea, en eftir því sem vér vitum best, sagði hann aldrei beint út neitt á móti því og reyndi ekkert að kippa því í lag. — Garrison fanst, að hann sjálfur aldrei geta notið frelsis síns, á meðan ekki voru leyst böndin af þrælunum í föðurlandi hans, og hann hefði glaður lagt líf sitt í sölurnar þeim til frelsunar. Fyrir þrælana var loftslagið betra í Nýja-Englandsríkjunum heldur en í Florida—því að

þar var heimili Garrisons; og Boston er og verður æfinlega helguð af minningu hans, því að þar lifði hann og starfaði.

Hið jarðneska líf Garrisons mun ykkur flestum að miklu kunnugt. En það er tilvera hans síðan hann skildi við jörð þessa, sem mig langar sérstaklega að minnast dálítið á.

Ég er draummaður mikill. Ég sofna varla svo augnablik, að mig fari ekki óðara að dreyma. Og þó að meiri hluti þessara drauma séu auðvitað marklaust og ósamstætt hugarvingl, þá eru þó sumir þeirra dálítið eftirtektaverðir, og draum þann, er eg nú skal segja ykkur, álít ég sérstaklega merkilegan.

Mig dreymdi að ég stóð við banasæng hins deyjandi Garrisons, og sá sál hans hreyfast eins og öldur á ókyrru vatni, þar sem hún var að reyna að losa sig við líkamann, sem hún þurfti ekki lengur við. Og ég sá ánægjubros yfir hinni nýju tilveru skiftast á við meðaumkunarsvip, er honum var litið á hina syrgjandi ástvini sem ertir lifðu.

Það var margt hugðnæmt sem staðnæmdi hann í Boston, bænum sem þeir áttu heima í, er hann hafði unnað mest í lífinu. Sál hans fylgdist með hans eigin líkfylgd til grafarinnar, og hlustaði með ánægju á hina fögru ræðu mælskuskörungsins Phillips.

Sál hans gat nú, samkvæmt eðli sínu, flogið frá einum stað til annars, eins fljótt og hugur manns. Hann brá sér því til Suður-Ameríku, og margur var sá blökkumanna hrörlegur bústaður, er hann beiddi blessunar. Í Kansas sá hann marga suðræna blökkumenn, er voru á leiðinni norður, syngjandi af fögnuði yfir hinu nýfengna fulla frelsi sínu. Í draum mínum fylgdi ég honum til Hayti, til Englands, til Liberíu og þaðan til Cuba, og altaf lék sama ánægjubrosið á svip hans, er hann sá hina nýju hreyfingu um heim allan í áttina til betra og fullkomnara almenns mannfrelsis.

Um síðir eins og dreginn af einhverju sterku aðdráttarafli, hóf svipur hans sig upp,—upp, þar til hin óumræðilega fegurð himnaríkis skein á móti honum; hallir þess gnæfandi upp í geyminn, líkast himingnæfandi fjallatindum af óumræðilegri hæð, og köstuðu kristalgluggar þeirra frá sér yndislegum geislum, og var það líkast fögru sólsetri á að líta. Það sýndist ekki vera neinn hraði á honum að fara inn; hann stóð höggdofa yfir þessari undursamlegu fegurðarsýn; og einna mest starsýnt varð honum á hinar mörgu, ljómandi grindahurðir, 264 feta háar, og var hver hurð gerð úr einni einustu skínandi perlu, og ljómuðu eins og stjarna á heiðskírum kvöldhimni.

Að lokum barði Garrison að dyrum, og sat Pétur fyrir innan með lyklakippu mikla við belti sér.

"Hvert er nafn þitt?" spurði Pétur.

"William Lloyd Garrison," svaraði hann í hvellum róm.

"Ég þekki nafn þitt," mælti Pétur; "og ef þú hefðir beiðst hér inngöngu í gær, þá hefði þér verið frá vísað. En vér höfum fyrir litilli stundu síðan fengið meðmæli frá Methódista-prestafundi í Boston þér í vil, og þess vegna er þér innganga leyfð." Síðan snéri hann sér til engils, er stóð þar nálægt, og mælti: "Leiðsöguengill, sýndu manni þessum himnaríki og gefðu honum allar þær upplýsingar, er hann æskir eftir."

Garrison steinþagði. Hann sýndist eins og yfirkominn af öllu því undarlega og kýmilega, er bar fyrir augu hans og eyru.

Hann fór nú af stað með fylgienglinum og liðu þeir áfram eftir hinum gulllögðu strætum í borg guðanna. Hann horfði upp að hinum himingnæfandi byggingum, þar sem var hlaðið gólfi á gólf ofan þar til augu hans höfðu hvarflað 1500 mílur upp, og sýndust mér þau vera þrútin af áreynslu, og heyrði ég hann segja:

"Ég get ekki hugsað mér hvernig fólk fer að komast efst upp í þessar byggingar; mér veitir full erfitt að eygja svo hátt."

"Við höfum áhöld til uppgöngunnar sem þú fær bráðum að sjá," svaraði fylgiengillinn.

Þeir héldu nú áfram göngu sinni, og lá vegur þeirra á kafla nokkrum fram með bökkum ódauðleikavatnsins, og sá ég Garrison drekka af því stóra teiga; og síðar sá ég hann seilast upp í lífsins tréð, er óx þar fram með vatnsbökkunum, og borða af aldinum þess, og tók ég eftir því, að í hvert sinn er hann tók aldin af trénu, var þar óðara komið annað í staðinn.

Stundum gengu þeir Garrison og leiðsöguengillinn venjulegum mannlegum gangi, en svo aftur með köflum, þegar þeir vildu hraða sér, liðu þeir áfram á óskiljanlegan hátt, og fóru þá hraðara en vindurinn.

Eftir feyki-löngum strætum, gegnum ljómandi skemtigarða, og fram hjá afar-skrautlegum musterum, — hvervetna mættu þeir aragrúa af fólki, og horfði Garrison með undrunarsvip á alt sem fyrir augun bar. Um síðir komu þeir nálægt miðpunkti borgarinnar, og varð þar fyrir þeim stöðuvatn mikið og fagurt, og nefndi leiðsöguengillinn það: kristalsjóinn. Mig verkjaði í augun af ljósglampanum sem kastaðist frá hinum undursamlegu kristöllum stöðuvatns þessa. Skip voru þar á ferð fram og aftur um vatnið, og sýndust þau öll gerð úr perlusteinum. Svifu þau áfram með miklum hraða án segla eða nokkurs annars sýnilegs hreyfiafls. Garrison og leiðsöguengillinn stigu á eitt af skipum þessum, og að litilli stundu lið-

inni voru þeir komnir yfir um vatnið. Og nú var Garrison kominn í nánd við hásæti guðs. Tók það hann nokkra stund að venja augu sín við hina ósegjanlega skæru birtu, sem streymdi frá hásætinu. Yndislega fagrar söngraddir virtust eins og líða um hvervetna í geymnum, og varð Garrison eins og yfirkominn af öllu þessu og settist niður sér til hvíldar.

Frá þeim stað er hann sat, hefði ekkert mannlegt auga getað greint glögglega, sökum fjarlægðar, hvað fram fór i kringum hásæti drottins; en sjón Garrisons var nú miklu skarpari en áður, og gat hann vel aðgreint alt sem framfór þar. Nálægt hásætinu sá hann fjögur einkennileg dýr, sem vafalaust enginn vísindamaður hefði getað nefnt eða sagt hvaða flokki þau tilheyrðu. Eitt þeirra var helzt svipað ljóni, annað líktist kálfi, hið þriðja hafði ferfættan dýrslíkama og mannshaus, og hið fjórða var líkast örn. Þau höfðu hvert um sig sex vængi, er þau sífeldlega notuðu sem kæliblæjur; enn fremur höfðu dýr þessi fjölda mörg augu hér og þar um skrokkinn. Dýr þessi öskruðu upp öll í senn, með ógurlegri raust og að eins fárra augnablika hvíld á milli: "Heilagur, heilagur, heilagur faðir, guð almáttugur, sem var og ert og verða mun!'

Næst dýrum þessum sátu 24 öldungar, hvítklæddir og með gullkórónur á höfðum sér. Og næst þeim var fylking 144,000 engla, sem leiðsöguengillinn nefndi "hið heilaga einsetulið." "Því að," sagði hann, "þessir menn voru aldrei af konum saurgaðir meðan þeir voru á jörðu." — Næst komu tíþúsund sinnum tíuþúsund englar, allir hvítklæddir, og í hvert sinn sem dýrin hættu að öskra, léku þeir á gullnar hörpur cg mátti heyra það hundrað mílur vegar.

Yfir hásætinu var skær og fagur regnbogi, án þess þó að þar væri nokkuð sýnilegt er framleitt gæti hann, og undraðist Garrison þetta mjög. En leiðsöguengillinn kvað þetta að eins smáræði eitt, og sagði honum að hann mundi sjá óendanlega margt fegurra og stórkostlegra, er hann kyntist betur hinni heilögu borg. — Við og við dundu frá hásætinu eldingar, gnýhljóð og þrumur, svo hörpurnar hristust og skulfu í höndum englanna; og þess á milli gusu upp þykkir reykjarmekkir, svo að hásætið líktist um stund eldgjósandi fjalli. Ég heyrði Garrison spyrja hvað allur þessi gauragangur ætti að þýða, og var honum svarað, að þetta kæmi fyrir, þegar guð almáttugur, sem í hásætinu sæti, yrði reiður, "sem ekki kemur svo sjaldan fyrir," bætti leiðsöguengillinn við.

"En þarf hann alla tíð að sitja þarna í hásætinu?" spurði Garrison; "ef svo er, þá er honum nokkur vorkun, þótt hann sé ekki ætíð í góðu skapi."

"O nei," svaraði leiðsöguengillinn; "þú sérð þessi sjö ljós frammi fyrir hásætinu. Það eru hinir sjö andar guðs. Eins og þú veist er sjö heilög tala, því að guð hvíldi sig á hinum sjöunda degi. Þú hefir lesið í biblíunni um sjö engla, sjö signet, sjö plágur og sjö glös; alt þetta á að tákna hina sjö anda guðs; skiftast þessir sjö andar á um að sitja í hásætinu, og situr hver þeirra fjórar klukkustundir í einu. Væri ekki þetta til úrræða, mundi ekki einu sinni guð almáttugur þola til lengdar öskrið í dýrunum, englasönginn og alt það endalausa bænastagl, sem síelt og æfinlega suðar kring um hásæti guðs."

"Jæja Garrison, hvernig lýst þér nú á Paradís?" spurði leiðsöguengillinn eftir nokkra stund.

Staðurinn er yndislega fagur," svaraði Garrison, "það er ekki hægt að neita því, og söngurinn er líka allgóður, þótt þessi org í dýrunum spilli honum stórum. En ég sé hér ekki eitt einasta andlit sem ég þekki. Síðan við fórum af stað, höfum við mætt svo miljónum skiftir af fólki, en að undanteknum fáeinum klerkum frá Boston—sem ég álít himnaríki lítinn sóma að,—þá hefi ég enn ekki séð eitt einasta kunnugt andlit. Þessar skrautlegu hallir, gullnu stræti og kórónur og sönghörpur, það er vitaskuld alt saman gott og fagurt í sinni röð; en það þarf eitthvað annað og meira til þess, að gera mig ánægðan með himnaríki."

"O, þú eignast hér skjótt nýja vini og kunningja, og áður langt líður muntu kunna vel við þig," svaraði leiðsöguengillinn. "Taktu við hörpu þessari og syngdu guði lofsöng."

"Ég vildi gefa þúsund hörpur fyrir að fá að sjá eitt vinarandlit," svaraði Garrison, og var raunasvipur á hinu göfugmannlega andliti hans.

"Hverjir voru hinir helstu vinir þínir?" spurði leiðsöguengillinn.

"Einn þeirra var George Thompson; hvar er hann?"

"Ég býst við ég viti hvern þú átt við. Hann var víst andatrúarmaður?"

"Já, hann var það," svaraði Garrison.

"Já, ég vissi það," hélt leiðsögu-engillinn áfram; "hann var einu sinni sanntrúað guðsbarn, en svo varð hann villitrúarmaður og snerist í flokk með guðleysingjum. Himnaríki getur aldrei orðið bústaður þess konar manna".

"Hvar er hann þá?" spurði Garrison.

"Það eru til einungis tvö heimkynni fyrir framliðnar sálir," svaraði leiðsögu-engillinn. "Hann trúði ekki á Jesúm Krist sem heilagan frelsara; og því er hann nú hjá þeim, sem lofuðu og elskuðu lygina, — þar sem eldurinn aldrei sloknar".

"George Thompson í Helvít!" hrópaði Garrison; þá hlýt ég að vera hér á röngum stað." Og svipur hans varð nú enn alvarlegri en áður. Eftir litla stund mælti hann svo aftur: "Mér þætti gaman að vita hvar er höll Theodore Parkers".

"Theodore Parker á ekki hér heima," svaraði leiðsögu-engillinn; "ég man vel eftir nafni hans. Það kom hingað um langan tíma óslitinn bænastraumur til guðs almáttugs, frá guðhræddum klerkum i Boston, um að reyra fasta tungu hans og krækja krókum í munnvik honum, til að taka fyrir áhrif hans. Og hann var líka rekinn héðan á burt þegar er hann kom".

"Og hvert?" spurði Garrison með ákafa.

"Til Helvítis, auðvitað," svaraði leiðsöguengillinn.

"Þegar Garrison heyrði þetta, var þolinmæði hans þrotin, og mælti hann: "Sendið mig þá einnig til Helvítis! Ég vil heldur vera þar með Parker, heldur en í Himnaríki með því fólki sem ég enn hefi séð hér."

"Stiltu skap þitt," mælti leiðsöguengillinn; "þér mun finnast alt ahnað eftir nokkurn tíma. Tilfinningar mínar voru svipaðar þessu er ég kom hingað fyrst og varð þess áskinja, að konan mín og helmingurinn af börnunum okkar voru í Helvíti; en ég er nú farinn að sætta mig við það, og mun fara á sömu leið fyrir þér."

Ég vona og óska þess af öllu mínu hjarta, að ég læri aldrei að sætta mig við slíka óhæfu!" hrópaði Garrison og hleypti um leið brúnum. Síðan snéri hann sér að leiðsöguenglinum og mælti:

"Mig langar til að fá að tala við hinu gamla vin minn Henry C. Wright; hann var einn af okkar mestu hetjum í þrælastríðinu, —þar sem hinir kristnu prestar voru svo að kalla hver einn og einasti þeirra bleyður og illmenni. Hann hlýtur að vera hér.

"Hér er enginn Henry C. Wright," svaraði leiðsöguengillinn. "Wright var trúleysingi. Hann skrifaði einu sinni rit á móti biblíunni; hann fyrirleit hinn heilaga friðþægingarsáttmála, og úthúðaði Jehóva á allar lundir. Bústaður hans er meðal hinna fordæmdu."

"Henry Wright, Parker og Thompson, allir í Helvíti!" hrópaði Gasrison. "Sendið mig þangað líka; ég get aldrei sætt mig við tilveruna hér á meðan ég veit þá alla kveljast eilífum vítis kvölum!"

Ég gat í draum mínum lesið hverja hugsun Garrisons, og sá ég að hann var að hugsa um, hver það gæti nú annars verið í Himnaríki er sig langaði til að sjá. Um síðir staðnæmdist hugur hans við Washington. "Ég hafði ekki neina sérlega ást til hans í lifanda lífi," hugsaði hann með sér; "en mér finst það mundi hressa mig nú, að sjá hið alvarlega andlit hans og tala við hann fáein orð."

"Hvar er Washington?" spurði hann svo leiðsöguengilinn.

"Það eru nokkuð margir með því nafni hér," var svarið. "Hvaða Washington er það sem þú spyrð eftir?"

"George Washington, hinn fyrsti þjóðveldisforseti Bandaríkjanna," svaðaði Garrison. "Himnaríki getur naumast verið fullkominn sælustaður sannra Bandaríkjaþegna, ef Washington er þar ekki."

"Jarðneskir verðleikar hafa hér ekkert gildi," svaraði leiðsöguengillinn. "Við erum ekkert sérstaklega vinveittir lýðveldishugmyndum. George Washington hefir farið sömu leið og aðrir uppreistarmenn."

Það fór hrollur um Garrison.

"Veistu ekki," hélt leiðsöguengillinn áfram, "að sérhver valdstétt er skípuð af guði, og að sérhver sá sem veitir valstéttinni mótstöðu, hann veitir guðs tilskipun mótstöðu og skapar með því sjálfum sér eilífan kvaladóm? Washington reis öndverður gegn þessu valdi, og fyrir það er hann nú að úttaka maklega hegning. Það var eitt sinn gerð uppreist hér í himnaríki, og oss langar ekki til að það komi fyrir aftur. Og auk þess var Washington í hjarta sínu eins mikill vantrúarmaður eins og Voltaire. Gáfur hans eg þrek komu honum að góðu haldi á jarðríki; en hér er slíkt að vettugi virt."

"Ég býst þá við," mælti Garrison, "að Jefferson, Adams, Franklin og Thomas Paine, þessir miklu, heimsfrægu ágætismenn, séu allir í Helvíti með Washington?"

"Já, vitaskuld," svaraði leiðsöguengilllnn. "Hverjir skyldu hafa verðskuldað Helvíti, ef ekki þessir menn? Þeir voru allir vantrúarmenn í hjarta sínu, og dirfðust einnig að láta það í ljósi opinberlega. Þeir forsmáðu ýms af hinum heilögu boðum guðs, og nú uppskera þeir samkvæmt breytni sinni. Ef þig langar til að sjá þessa menn, þá skal ég sýna þér þá."

Að svo mæltu héldu þeir af stað til útjaðars borgarinnar. Komu þeir þar að skrautlegu riði gerðu úr hreinu silfri, og lág það upp á efri brún á virkisvegg þeim, sem umgirti Himnaríki. Veggur þessi eða girðing var fjórðungur mílu á breidd, og á ytri brún hans að ofan voru veggsvalir miklar, og var þaðan mjög glögt útsýni niður til Helvítis. Enda var þar fjöldi heilagra á skemtigöngu fram og aftur.

"Í hvert sinn sem leiðindakast dettur í einhvern af íbúum Himnaríkis," mælti leiðsöguengillinn, "þá förum við með hann hingað og sýnum honum Helvíti, og nægir það venjulega til þess að gera hann ánægðan með himnavistina."

Staðnæmdust þeir nú fast út við ytri-rönd steinveggjarins, og starði Garrison með undrun og skelfing niður í hið ógurlega dýki. Var það hryllilegri sjón en hægt sé að lýsa með orðum.

Var það líkast til að sjá ógurlegum eldgýg; vall og sauð alt yfirborðið og lék um það blár logi, og lagði sífeldlega upp af því þykkan reykjarmökk. Fyrir líkamleg augu varð þar ekkert aðgreint sem ekki var miklu stærra en maður; en hin himnesku augu englanna gátu vel aðgreint þar fyrverandi meðbræður sína, og voru þeir alt af að smá sökkva og skjóta upp aftur á vígsl, líkt og bólur vella á sjóðandi katli. Og sífelt mátti þaðan heyra kvalavein og þungar stunur neðan úr dýkinu, stundum með biðjandi barnsróm og aftur aðra stundina barst það að eyrum okkar eins og þrumugnýr úr skýþrungnu lofti.

"Líttu eftir nákvæmlega", mælti leiðsöguengillinn; "og muntu eflaust sjá þarna einhverja af þeim, sem þú hefir verið að spyrja um." Í draum mínum var sjón mín og heyrn orðin eins skörp eins og englanna og sá ég glögglega fljótandi í hinu vellandi dýki þá Thompson, Parker, Wright, Jefferson, Paine og Franklin, og horfðu þeir bænaraugum til Himnaríkis um leið og þeir hrópuðu:

"Ó, guð! Hve lengi, hve lengi?"

Og að eyrum mér barst helgrimm, nístandi rödd einhversstaðar frá undirdjúpi Helvítis, sem svaraði:

"Eilíflega, eilíflega! Hin eilífa reiði mín er eldsneytið, og hún verður aldrei sefuð!"

Hærra og hærra hljómuðu angistarvein hinna fordæmdu og fór jafnvel hryllingur um leiðsögu-engilinn, og lét hann í ljósi löngun sína að snúa til baka aftur. En Garrison stóð kyr sem steinilostinn og starði ofan í kvaladýkið. Og mér til skelfingar þekkti ég þar nú einnig þá Agassiz og Humboldt. Garrison virtist ekki þekkja Humboldt; en Agassiz var hann vel kunnugur og þekti hann þegar.

"Miskunsamur guð!" hrópaði hann; "hvað hafði Agassiz aðhafst til að verðskulda þessar kvalir? Hvernig getur himnaríki verið án hans?"

"Hann er nú eiginlega ekki þarna fyrir það, sem hann *gerði*, heldua fyrir það, sem hann lét *ógert*", mælti leiðsögu-engillinn. "Menn eins og hann, eru venjulega of sjálfstæðir og drambsamir yfir vísindalegum iðkunum sínum, til þess að niðurlægja sjálfa sig og gerast ölmusu beiðendur við krossins tré. Agassiz ekki einu sinni kastaði frá sér hinum einu náðarmeðulum, er frelsað geta synduga menn, en hann neitaði einnig tilveru Adams; og sá sem gerir það, neitar um leið nauðsyninni á tilveru frelsarans, og snýr baki sínu að

þeim eina vini, sem til er milli jarðarinnar og Helvítis. Vísindin eru, næst djöflinum, hinn skaðlegasti óvinur Himnaríkis. Þar sem vísindin þróast hjá mönnum, þar er trúin höfð í háði og skopi, þar til hún algerlega hverfur".

Alt í einu tók ég eftir, að ein af hinum veinandi kvöldu sálum niður í dýkinu hafði komið auga á Garrison og þekt hann, þar sem hann stóð á tali við leiðsögu-engilinn; flaug fregn sú fljótt frá manni til manns um gjörvalt Helvíti, að Garrison væri kominn til Himnaríkis, og var eins og vonargeisla brigði yfir hið koldimma kvalasvartnætti, og heyrði ég hinar glötuðu sálir segja eina við aðra:

"Fyrst Garrison er í Himnaríki, þá er þó ekki öll von úti fyrir okkur."

"Er enginn vegur", mælti Garrison, er þeir sneru til baka aftur, "að frelsa þessar kvöldu sálir? Ég skyldi glaður gefa sjálfan mig í sölurnar ef að það gæti komið að nokkru haldi."

"Þessu líkar tilfinningar eiga sér stundum stað hjá þeim, sem eru nýkomnir hingað og eru ekki orðnir fullkomlega gegnsýrðir af heilögum anda," svaraði leiðrögu-engillinn. "Nei, það er engin frelsun möguleg hinum glötuðu. Svartnætti Helvítis er stjörnulaust og þar ljómar aldrei af degi. Hlið Himnaríkis ljúkast aldrei upp fyrir þeim, sem einu sinni hafa verið sendir til Helvítis".

Garrison var hljóður um stund en mælti síðan: "Lof mér að heyra nöfn nokkurra þeirra helstu, sem hér eru í Himnaríki, ef ske kynni að ég þekti einhvern þeirra."

"Abraham er til dæmis hér," svaraði leiðsögu-engillinn.

"Það gleður mig mjög að heyra það," svaraði Garrison, og sá ég nú innilegan ánægjusvip færast yfir andlit hans í fyrsta sinni síðan hann sté inn fyrir landamæri himnaríkis. "Já, mér er það sönn ánægja, því að af öllum forsetum Bandaríkjanna óska ég helzt að sjá og tala við Abraham Lincoln."

"Abraham Lincoln!" endurtók leiðsöguengillinn. "Það var ekki sá Abraham, sem ég átti við. Það er hér enginn Abraham Lincoln. Ég á við Abraham föður hinna trúuðu og vin guðs."

"Hvað þá!" hrópaði Garrison; "þú átt þó ekki við hinn gamla þrælakonung og syndasel, sem rak frá sér konu sína Hagar út á eyðimörku til þess að deyja þar?"

"Jú auðvitað á ég við hann," svaraði leiðsöguengillinn. "En þú talar ekki allskostar tilhlýðilega um hinn gamla forföður."

"En Abraham Lincoln var svo óendanlega mikið betri maður," svaraði Garrison.

"Það er hverju orði sannara," svaraði leiðsöguengillinn; "en

inngönguleyfi til Himnaríkis er undir öðrum verðleikum komið, en mannkostum. 'Sá sem *trúir* mun hólpinn verða, en sá sem ekki trúir mun tortímast.' Það er til fólk hér, sem djöfullinn sjálfur mundi skammast sín fyrir að hafa nokkur mök við, en sem fyrir trúna á Jesúm á síðasta augnabliki voru þvegnir í lambsins blóði og fengu því bústað í Himnaríki. Ísak og Jakob eru hér, Móses og Samson Samúel, Davíð, Salómon og Jehú, Constantinus hinn mikli, Hinrik áttundi og Calvin sem myrti Servetus; þær eru hér einnig María hin blóðþyrsta, sem lét brenna á báli prótestanta og hin álíka blóðþyrsta systir hennar, Elísabet, sem lát brenna á báli kaþólska menn. Þau hafa öll fengið hér inngöngu, ekki vegna þess að líf þeirra væri nein sérstök fyrirmynd, heldur fyrir það, að þau létu ósleitulega í ljósi trú sína á frelsarann, sem koma mundi eða sem kominn væri, og sem hefði búið þeim öllum eilífa sælu í ríki himnanna, sem á hann trýðu."

"Ef þeir einir fá inngöngu í Himnaríki," mælti Garrison, sem hafa þessa alfrelsandi lausnartrú á Jesúm, þá hlýtur íbúatala Himnaríkis að vera tiltölulega mjög smávaxin. Eru þetta þeir einu sem hér er inngang leyfð?"

"Nei, því fer fjarri," svaraði leiðsöguengillinn; þú gleymir öllum börnunum, sem að sjálfsögðu eiga hér bústað."

"Ójá, litlu börnin, ég hafði alveg gleymt þeim," svaraði Garrison.

"Já, öll börn eru hér," hélt leiðsöguengillinn áfram; "þau verða öll náðarinnar aðnjótandi, því þau gengu aldrei hinn breiða veg til glötunarinnar, og hinar meðfæddu syndir, sem ganga í erfð til allra manna frá hinum fyrstu foreldrum, þær eru þvegnar í burt með Jesú blóði. Lof sé guði, hans eilífa takmarkalausa miskunsemi leyfir öllum ungbörnum,—meira að segja börnum vantrúarmanna og hinna forhertustu syndara—inngöngu í himnaríki."

Garrison fanst lítil ástæða til þess, að þakka guði sérstaklega fyrir þessa miskunsemi. Hann stóð lengi hugsi, "En hvar eru mæður þessara barna?" spurði hann svo eftir nokkra þögn.

"Nokkrar þeirra eru hér, ef til vill tvær til þrjár af hverju þúsundi."

"En hvar eru hinar?"

"Ef satt skal segja," svaraði leiðsöguengillinn, "þá eru þær þarna í kvaladýkinu sem þú sást áðan."

"Veslings litlu börnin!" mælti Garrison með grátstaf í kverkum.

"Guð sér fyrir þeim," svaraði leiðsöguengillinn.

"Já, en guð getur einungis séð fyrir þeim eins og faðir mundi gera; enginn getur annast litlu börnin eins vel og ástrík móð-

irin. En það er óefað enn einn flokkur manna í Himnaríki. Ég hefi séð hér margar manneskjur með mjög barnslegri háttsemi, og þó er það fulltíða fólk."

"Já, ég veit hverja þú átt við," svaraði leiðsöguengillinn. "Það eru fábjánar og vitfirringar og yfir höfuð allir þeir, sem ekki höfðu þrek eða vit til að hugsa sjálfstætt. Þá skorti þekking og skynsemi til að rannsaka, og því neituðu þeir ekki frelsaranum, sem keypti þá með blóði sínu, og þess vegna eru þeir allir hér—frá öllum tímum og af öllum þjóðflokkum. Eins og þú getur skilið, samanstendur því íbúatala Himnaríkis að miklu leyti af heimskingjum og vitfirringum."

"Það er mjög sennilegt," svaraði Garrison. "En eftir á að hyggja, þið hljótið einnig að hafa hér bæði morðingja og önnur illmenni; ég hefi séð hér æðimarga með mjög svo þrælmannlegu yfirbragði."

"Það er satt," svaraði leiðsöguengillinn, "við höfum hér fjölda mesta af morðingjum; yfir höfuð flest alla þá menn, sem hafa verið hengdir fyrir morð í kristnum löndum. Eins þú veist, að þegar menn hafa verið dæmdir til dauða, og öll von um mannlega hjálp er úti, þá snúa þeir sér venjulega að frelsaranum, sem getur hvítþvegið hina örgustu bófa og illræðismenn. Og þegar því snaran er sett um háls þeim og fallþrepið látið síga, þá dingla þeir beint í fangið frelsarans, sem hefir sagt: 'enginn sem til min kemur, skal frávísað'."

"Já, ég hefi heyrt talað um að vera 'hengdur til Himnaríkis'," svaraði Garrison. "En ég átti ekki von á að sjá hér svo marga sem gengið hefðu í gegn um þann hreinsunareld. Það virðist eins og hér vera mjög fáir aðrir en þeir, sem ekki er ómaksins vert að senda til Helvítis."

Ég hélt að sjálfsögðu, að leiðsöguengillinn mundi eitthvað reyna að andmæla þessu, en hann beit á vör og svaraði að eins:

"Því verður ekki neitað, að gáfaðir menn á hæsta stigi mentunar og lærdóms, ganga fram hjá og gefa lítið fyrir hin auðveldu sáluhjálpar-meðul. En miður skynsamt og illa upplýst fólk, og þeir sem allar jarðneskar vonir eru horfnar, sökum glæpsamlegs æfiferils —þess konar fólk viðurkennir þessi endurlausnarmeðul og meðtekur þau með trúarlegri auðmýkt og þakklæti.

FRAMHALD NÆST.

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri: MAGNÚS J. SKAPTASON.
686 Alexander Ave.

Féhirðir og afgreiðslumaður: MAGNÚS PÉTURSSON.
709 Alexander Ave. — Box 305.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.